en skulu med öllu Nakin vera/ef ad þau eru osiuk/Og skal Skyrefaderen/ taka þad a hönd sier/yfer Fontenum/og Ausa þad Vatne þrysuar/med þm ordū j Nafne Födur og Sonar ꝛc.

Enn sie þau miög siuk edur veyk/þa skal þau ber giöra j Reifū alle ad herdum/og ausa yfer Höfudid/so ad Vatn rene ofan epter Barnenu

Prestar skulu og so giæta ad þegar Frost er og Kulde/ad Vatn sie varmt giört/so ad Barnkorned fae ecke skada/ af kulda/Þui ei hæfer ad þui sie til nockurs haska stofnad þar med sem Gud hefur til skickad þui til heilsu botar Lijfs og Sælar.

Nu sem barnit kiemur til Prestz þa spyr hñ fyrst ad/huers Barn þ er/Og huert þ er ei adꝛ skijrt/ og huad þ heiter. Sie Barned ei skijrt adꝛ/Ellegar og ef hm lyst þ ei rietteliga skijrt vera/þa skal hñ skijra þ so sem epterfylger/Þuiad eingin skijrn skal vera med nockru forordt j Kristeligre Kyrkiu.

Fyrst og fremst skal Presturin stuttliga med fam ordum þo kröftugum/vtskyra fyrer þeim sem vid eru stader/ huad Dyrmætur hlutur Skijrnen hun er/Og ad þeir giefe giætur ad huad yfer Barnenu er talad og lesid. Þeir skulu og eirnen med Prestinum bidia til Gudz/og tala med honum aull þau Bænar ord/Sem lesin verda. Þar fyrer sku Prestarner þessar Bæner lesa seint og skilmerkiliga.

Prestarner skulu og varnda/ad ei sie Dreinger edur börn til Gudfedgina tekin/helldur sidsamer Fromer men/so slijk þionustugiörd sie framen med tilheyreligre sañre Virdingu/so sem i auglite allrar Heilagrar þrenningar/enn i onguan mata/med gamne/giemsne/edur leikaraskap nockrum.

Þad være og skickanligt/þar sem þui verdur Vid komed med godfelldu og ef Börnen eru Heilbrigd/ ad þau sie skijrd/ a Suñudeige a soknar Kirkiuñe/ i Messuñe/Skijrnar Embættenu til heidurs / Enn verde þad ecke giört fyrer forfalla saker/þa skulu þo Prestarner/saman kalla allt Folk þad a Bænum er/ad sem flester sie vid þessa Þionustugiörd/prestur skal klædur Ryckilijne/til Heidurs vid Sacramentid. Og ad sijdustu/þa ma Presturiñ giöra þessa amiñing / edur adra þuilijka fyrer Gudfedginum/og þeim sem vid skijrnina eru stadder /adur hañ skijrer Barned.

Elskulig Syskin i Gude. Huersu Dyrmætt þetta Haleika Sacramentum er / þad kañ eingiñ vt ad skyra nogliga/

Enn þo skulu þier sierdeilis og einkum/ athuga þessar epter fylgiandi greiner.

I Fyrer þetta Dyrmæta Sacramentum Skirnarinnar/ verda vor Børn jnntekinn i Samkundu Heilagrar Kristne til þess ad þau verdi hlut takandi allra þrra velgiørninga/ sem vor Herra Jesus Christus giefur sinne elskuligre Brudur/ huer ad er su Christiliga Kirkia. Enn velgiorningarner og gafurnar eru þessar/ Fyrst Heilagur Ande/ Syndanna fyrergiefning/ Og þad eilifa Lijf. Þar fyrer seiger S. Pall so/ Vier sem erum Skirder vier Skyrdunst og jklædunst Jesu Christo. Þad er ad skilia/ Vier erum Kristner/ z allt þad Jesu Christo til heyrer þad er ordit vort/ Galat. iij.

II J Skirninne/ fyrer Ordit/ verdum vier Gudz elskulig Børn/ og lifandi Bustadur og Musteri hins Helga Anda hreiner og klarer af ollum Syndum sem vier erft hofum epter vora Forelldra/ Þar fyrer seiger vor Herra Jesus Christus sialfz so/ Nema þuiat eins ad Madurinn Endurfædist af Vatne og Heiløgum Anda/ þa kann hann ecke jnn ad ganga i Gudz Rijki. Joh. iij.

III J Skirninne verdum vier Andliga Jardader/ og vpp rijsum af Dauda/ med vorum Herra Jesu Christo/ til ad Lifa i einum Nijum lijfnade/ Vppa þad ad vier skulum eilifliga med honum Lifa / Rom vi.

IIII J Skirninne fyrer Ordit/ verdum vier Trulofader z fester Jesu Christo vorum Herra/ ad vier sieum hanns Flecklaus Brudur/ z samteingiust honum i Dyrdinne/ Heilagleik annu og ostraffanligu framferde/ Eph. vi.

V Fyre vtan alla verdskulldan vorra verka/ alleinasta vt af skiære Nad og Myskun/ giører Gud oss Saluholpna/ fyrer

fyrer Endurfædingar skijrnena / og endurnyiũ Heilags Anda/huerium Heilögum Anda Gud Fader fyrer siñ Ein gietin Son vorn Herra Jesum Christum yferfliotanliga vt heller yfer oss/ Vppa þad þa vier erum suo riettlater ordner af hŭs Nad/ og Myskun / mættum vier verda erfingiar Eilijfs lijfs Titum iij.

Og nu vppa þad / god systkin/ad þetta Barn mætte ödlast slijka Nad þa vilium vier nu aluarliga akalla og bidia Gud almattugan/ Þuiad Diöfullin/sem er allra kristinna Maña/og þeirra Saluhialp Ouinur/ hñ giörer sier eckert ad gamne vidur oss/j mote huerium ydr byriar nu ad standa med saññe Tru og aluarligre Bæn til Gudz/ vegna þessa Vnga Barns.

Nær amiñingin er endod/ þa bidur presturin Gudþedgenin ad ne kna Barnid N.

Þar epter seiger hñ.

Far vt hiedan þu ohreiñ Ande/ og gief Rwm helgum Anda.

Sydan giörе hañ eiñ Kross a Enne og Brioste Barnsins/og seige.

Med tak þu teikn hins Helga Kross bæde a Enne og a Brioste.

Vier vilium bidia.

Almattugur eilijfur Gud/ Fader Drottins vors Jesu Christi/ Eg akalla þig yfer þeñan þiñ Þienara/ N. (þessa þijna Ambatt/N) sem bidur vm þijna skijrnar gafu/og girnist þijna Eilijfliga Nad/fyrer þa Andligu endrfæding/Medtak þu hñ(hana) Drottin. Og so sem þu hefr sagt/bidied og munu þier medtaka/ Leited og munu þier fiña/ Knyied a/ so mun fyrer ydur vpploked verda. Suo gief

 nu

nu þad goda þeim sem bidur/og lat vpp Dyrnarfyrer þeim sem a knyr.. Ad hñ (hun)ødlist eilijfa Blessun þssar N. nm neskrar laugar. Og medtake fyrer heitid rijke þiñar gafu/ fyrer Jesum Christum vorn Drottinn

Hier til skulu Gudfedginin suara/ Amen.

Presturiñ segie.

Latum oss bidia.

Almattuge eilijfe Gud/ þu sem med strijdu þijns Riettlætis/hefur med Vatzflode fyrerdæmt hina vantruudu verølld/og med þiñe mykille Myskun/frelsader hiñ Trulynda Noa/og atta Saler med honum/ z Drecktter hinum hardud uga Pharaone/med aullum sijnum i Hafinu rauda og fluter þiñ Lyd Jsrael/þurrum Fotum/ þar i giegnum/þar mz teiknande þessa laug þiñar tilkomande Skijrnar/Og fyrer Skijrn þijns elskuliga Sonar Drottins vors Jesu Christi hefur þu bæde Jordan og øll Vøtn helgad/ og Jñsett/til hialpsamlegs Flodz/og rijkugligrar hreinsunar Syndaña/ vier bidium þig fyr͛ sømu þijna/oseiganliga Myskunseme/ ad þu virdist þenna N. Nadugliga ad alijta/og hñ med riettre Tru ad gæda/ad fyrer þessa heilsusamliga vatz laug/dreckist/af honum z mæ ist/þat allt sem honum er af Adam medfædt/og hñ sialfur þar til verkad hefur/ og ad hñ vt af tølu vantruadra Maña/raskilin i Aurck Heilag rar Kristne/þurr og auruggur/vardveittur verde/Jafnan/ med gloanda Anda/og gladværre von/ þijnu nafne þione/ so hñ med øllum trulyndū makligur verde/ ad ødlast/eilijft lijf þijns fyrerheits / fyrer Jesum Christum/vorn Drottiñ.

Gudfedginin seige Amen.

Þar epter seiger skijrefaderen.

Eg

Eg sære þig þu ohreinn Ande/ j Nafne Fødur / og Sonar og Heilags Anda/ ad þu vt farer og burt huerfer/ af þessum þienara Jesu Christi N. Amen

Latum oss heyra Heilagt Euangelium sem S. Marcus Skrifar.

J þann tijma færdu þeir Børn til Jesu ad hann legde hendur yfer þau/ Enn Læresueinarner atøldu þa sem þau leiddu. Og er Jesus sa þad lijkade honum þad eige vel/ og sagde til þeirra/ Leyfed Børnunum til mijn ad koma/ og banned þeim þad eige/ þuiad/ þuilijkra er Gudz Rijke. Sann liga seige eg ydur huer hann medtekur ecke Gudz Rijke/ sem annad Vngbarn/ sa mun eige jnganga i þad/ og hann tok þau i fang og lagde sijnar hendur yfer þau/ og Blessade þau.

Sijdan legge Presturenn sinar hendur a Høfud Barnsins og bidie/ Jafnt Gudfedgnin/ med knefalle og seige/ Fader vor et ct.

Leide sijdan Barnkorned ad skijrnar Sanum og seige

Drottinn hann vardueite þinn jngang og vt gang/ nu hiedann i fra og ad eilijfu.

Gudfedgenin seige/ Amen.

Sijdan late Presturinn Barned fyre sijn Gudfedgin/ afneyta Diøflinum og spyrie suo.

N. afneytar þu Diøflinum.

Gudfedgenenn andsuara/ Ja.

Og øllum hans verkum.

Andsuar/ Ja.

Og øllu hans athæfe.

Andsuar/ Ja.

Sijdan spyrie hann.

Truer þu a Gud Fødur Almattugan skapara Himens og Jardar.

Andsuar Ja.

Truer

Truer þu a Jesum Christum hanns Son Eingietinn Drottiñ vorn/ gietin af helgum Anda/ fæddan af Mariu Meyiu Pijndan vnder Pontuerskum Pilato/ Krossfestann lijflaten z grafin/ Vppriśiñ af Dauda/ Vppstigin til Himna/ Sitianda til Gudz Fødurs Hægre Handar/ og þadann komanda ad Dæma lifendur og Dauda.

Andsuar/ Ja.

Truer þu a Helgan Anda / z ad er ein heiløg Almeñelig Kirkia / samneyte heilagra/ Fyrergiefning Syndaña/ Holldsins Vpprisa/ og epter þetta lijf eilijft Lijf.

Andsuar/ Ja.

N: Villt þu vera skirdur.

Andsuar/ Ja.

Sijdan take hñ barnid og dyþe þui i Skijrnarsaen/ eda ause þad Vatninu og giöre þetta med myklum athuga/ þui hier vtj skal leita Barnsins velferdar/ eñ ecke skada Og seiger presturiñ a medan.

N. Eg skijre þig j Nafne Faudur/ og Sonar/ og Heilar Anda.

Gudfedginin meiga hallda Barninu hia Fontinum / so leinge ad presturiñ/ þærer þad i skijrnar Klædid (Kuþlen) sem vanaligt er sydā Lese hañ þessa Bæn.

Almattugur Gud og Fader vors Drottins Jesu Christi/ sem þig hefur endurgietid fyrer Vatn og helgan Anda/ z hefur þier allar þijnar Synder fyrergiefed/ hañ styrke þig med siñe Nad/ til eilijfs Lijfs Amen.

Fridur sie med þier Amen.

Aminñing til Gudþedgiña epter skijrnina.

Med þui þid erud Gudfedgin þessa Barns/ þa eru þid vppa

vppa Gudz vegna/ z yckar embættis skylldug þessu Barne/ Fyrst ad bera Vitne vm/ ad þad hefur Medtekid skijrn og Kristne/ Og ef Forelldrar þessa Barns kuñа fra ad falla/ ædur eñ Barned kiemur til Løgalldurs/ þa eige þid ad kieña þui sijn Kristilig Fræde/ x. Bodorden/ Credo/ Pater noster/ Iñsetningar ordeñ Sacramtaña beggia/ z añad þ sem Barnsins Saluhialp ahrærer/ ef ad þid erud Barninu nalæg. Seigied Fødur og Modur ad þau vppfæde Barnid i Gudz otta og godum Sidum.

Gud hallde siñe Blessan yfer oss Amen.

Ef Barn þad kiemur til Prestz/ sem ædur er skijrt/ og virdist hm̃ riett skijrt þa skal h̃ i onguan mata endur skyra/ þuiad ecke er vtan ein skijrn Ephe. iiij./ Alleinasta skal hñ telia fram truar greinernar j Spurningum sem sidur er til/ og Ewangeliũ Marci. Lese Fader vor med Anteþalle/ Sijdan skal hñ seigia til þeirra sem hia eru. Og sierdeilis til Gudfedginiña/ hueria Forelldrarner/ hafa til feinged.

God Syskin/ Þetta Barn er nu ædur skijrt og hefur allt til reidu Helgan Anda/ med Syndanna fyrergiefningu/ fyrer þui skulũ vær þ ei endur skijra Og skulu þid Gudfedgin hier vm framar øllum ødrum Vitne bera/ og þacker giøra Gude Drottne vorum sem þad hefur til Nadar teked fyrer Christum.

Þar epter seige hñ til Barnsens

Gud hñ vardueite þinn jngang og vtgang nu hiedann j fra/ og ad eilijfu Amen.

Gudfedginin seige Amen.

Bidle þa enu sijdustu Bæn/ sem er til er giørd/ medan hann færer Barned i skijrnar klædid

Almattugur Gud/ og Fader vors Drottins z c.

Þar epter tale hñ til Gudfedginanna.

Saker yckars

 Hier

# Hier epter fylger ad vitia Siukra/ og giefa þeim þa heilögu Aflauſn og Sacramentum.

Ad vitia þeirra ſem liggia a ſiñe ſottar Sæng/ er Gude miög þægeligt/ og ſialfur Christus hann vill a Himnum ſijdaſta Deige/ miñaſt þeſſa verks/ ſo ſem hann ſeiger Matth. xxv. Cap. Þar fyrer ſkulu aller Godfuſliga vitia þeirra Siuku/ þa þeir eru þar vmbedner giefa þeim huggun og vnderuiſan/ og Sacramentum/ med ödru þui ſem alliggur/ a þeñañ hatt ſem epterfylger.

Nær Presturiñ er nu kalladur/ og kiemur til hins Siuka/ þa ſkal hñ fyrſt og fremſt athuga/ huernen ſa ſame hefur hegdad ſier/ huernen hñs Lif og framferde hefur verid/ hafe hñ truadur verid/ og Gudz Ord elſkad/ Vppa þad ad Presturiñ kuñe þeſſ helldur og betur ad vnderviſa hm̃/ amiña og leidrietta hñ/ Epter þui ſem hañ þa heyrer og fornierker/ Og þr ſem ecke betur kuña/ þa meiga þeir þad giöra a þeñan hatt.

Kiære Broder (Syſter) Vær ſkulũ ſem hlydner/ Þionar og god Børn/ alla tijma/ bæde i heilſu/ og krankleika/ ſetia vorn vilia i Gudz vilia vors Himneſka Fødurs ſem Skapad hefur Himiñ og Jord oſſ til goda/ Hñ hefur og ſent Sõ ſiñ oſſ til Lauſnar/ Hann hefur og lofad oſſ (ef vær erum i j Truñe) eilijfu lijfe z Rijke Himnaña/ Hann vtuegar oſſ Hreinleika/ og øll ſkickanligheit ſo vær ſierdeilis a vitiunar tijmanum/ J ongum hotum j oþolinmæde/ ſetium oſſ jmote honum/ Þui fyrſt vær høfum mijked gott af Gude þeiged/ ſo ad hñ hefz oſſ ei golldit epter vorre forþienan/ helldz vmlijdur hñ oſſ Fødurliga til idranar og yferbotar/ Þui ſkulu vær ecke þa bera nockurn part Kroſſens og Motlætesins? Þar ſem vær høfum myklu þyngra forþienad/ ef hañ villde oſſ/ ſo ſem Synduga ſtreingeliga vrſkurda/ Eda þui vilium vier ecke med allre alwd z vndergiefne hñs vilia liufliga

med

medtaka/og giefa oſſ ad ſkilia þar med/ ad vier verdum ei fundner/ opacklater/ Þar ſem ad Chriſtur Gudz Sonur/ hefur drucked fyrer oſſ þann Beiſka Kaleik Þijnunnar og Daudans/Þar fyrer kiære N. vertu Hrauſtur/og trauſtur/ i Gudz Myſkunſeme/Og ſo ſem vær ættum alltijd ad vera vakande og Reidubuner fundner/nær hann kiæme/ſuo vier mættum med enu vijſu Jomfrunum mote honum ganga/og ecke nauduger/ eda oſkickanliger vera/Vær erum i þeſſare eymd Pilagrimar/ꝛ ecke annars enn vtlender/hafande hier onguan ſtad nie veru/Enn vort Fødurland/ og Heimkynne er i Himerijke/til hús ad vær þui meir Nalæguſt/ og æ þeſſ meir/ſem vier finnum oſſ veykare i Lijkamanum/Þar fyrer er þad allt til bærligt/ad vær tilreidum oſſ/ſkickum/ꝛ fyrer ſkipum øllum hlutum/Og nu kiære N.ef þad kann nockud þungligt ad liggia i þijnne Samuiſku ſem þu vilier mier ſagt hafa/þa mattu nu þad vel giøra /Sijdan vilium vier huer med ødrum til Gudz kalla/ epter kriſteligre ſkickan.

*Hier giöre ſa Siuke ſijna Jatning/Og a medann þad er giört/ þa gange Folked i burt/og kalliſt aptur epter Jatningina.*

*Epter Jatningina/þa ſkal Preſturinn ſetia fram fyrer hinn Siuka huggunar greiner Heilags Euangelij/med allre alud og Rögſemd/ Og giefa honum aflauſn/og enda þad mz þeſſum ordum/edur þuilijkum.*

Minn Kiære Broder/ Med þui ad þu Jdraſt nu þinna Synda af Hiarta/ꝛ þu treyſter alleina vppa Gudz Nad ꝛ Myſkunſeme fyrer vorn Herra Jeſum Chriſtum/ þa eru Þier allar þijnar Synder fyrergiefnar.Vertu hughrauſtr og ohræddur/Set þier alluarliga i hug og Hiarta//ad drygia ecki hiedan i fra Synder og glæpe. Þijn Tru giører þig Hialpligann.Þuiad vors Herra Jeſu Chriſti Blod þad af

 þuær

huær z hreinsar allar þijnar Synder/Joh. i. Cap. / Apoca/i. Og trudu fyrer vijst þar er eckert annad Nafn giefid Mønnum vnder Himnenum / i hueriu vier kunnum ad verda Saluholpner/vtann j Nafne þess Krossfesta Jesu Christi vors Drottins og Herra.

Þar epter Lese presturinn þessa Bæn og Jatning.

Heyr Almattugur Gud og Himneskur Fader/vier aum er og afskapliga Synduger Menn/ medkiennunst/ ad vier høfum Syndgast/ fra Barnæsku allt til þessarar stundar j mote þijnum Bodordum / j vondum Hugrenningum/ Ordum/ vilia og verke/ sem vær gietum med onguo mote reiknad/þar fyrer erum vær ecke makliger ad vera Nefnd þijn Børn eda vpplypta vorum Augum til Himnanna/O minn Gud og Fader/vær villdum nu þig alldrei reitt hafa/ Bidiande erum vær þig/ saker þinnar Myskunseme/og heidurs nafns þijns/ad med fyrergiefning vorra Synda/vilier þu oss vti Nadinne medtaka.

Aflausnen

Allsmegtugur Gud og Himneskur Fader/hann Myskunne oss sa er hefur sent sinn Son i þessa Verolld til Þanta/huer ad Fornfærdur var/sem Saklaust Lamb fyrer vorar Synder/a huern ef ad vær Truum/þa munum vær med Spillum kianum a Krossinum ødlast bæde fyrergiefning Syndanna og so jnngongu til Lijfsins/Ef þu truer þessu af øllu Hiarta/þa seige eg þig af Krafte Gudligrar Lofunar lausann og lidugann af øllum þijnum Syndum. J Nafne Fødur z Sonar og Anda Heilags Amen/

Bidium nu aller/ Fader vor

Sijdan seige presturinn.

Minn

Miñ Gud giør þu holpin Þion þinn/þann til þijn vonar/ Sendt þu honum hialp af þijnum helgedom/ og af Sion giørdu hñ holpiñ/Drottin sterk þu honum Kastale styrkur/ fyrer Asionu Ovinarins/Drotten heyr þu Bæn vora/ og akall vort kome til þijn.

Latum oss bidia.

Almattugr eilijfur Gud/þu sem leingder lijfdaga þijns Þions Ezechie Kongs vm Fimtan Aar/ Vier bidium þig audmiukliga/Ad þu villder med þeirre sømu þiñe magt ar hende heilsu liena þessum Þion þijnum(þessare Ambatt þiñe) þier til Heidurs/epter þui sem þier vel þocknast.Fyr er Jesum Christum þiñ Son/Amen:

Sijdan late Prestурin vpp nockud Bord/og legge hreinan Duk þar vppa/eda so sem hñ kñ þui þa best af stad ad koma/Late Vijn i Kaleik Braud a Patinu/setie vpp Vax Lios/Snuist sijdan til hins Siuka og seige.

Miñ gode Broder(Syster)med þui þu villt nu meðtaka vors Herra Jesu Christi Hollд og Blod/og mïnast hanns Dauda ogPijnu/þa gief vel giætur ad þeim ordum/ sem ad hlioda vppa þetta Heilaga Sacramentum hñs Hollds og Blodz/og Tru þeim af Hiarta/Og þacka honum fyrer þa oumræðeligu Elsku sem hñ hafde til vor/þa hañ fyrer Fornfæring sijns Lykama/ꝛ Vthelling sijns blessada Blodz leyste oss fra Fyrerdæmingiñe/Gudz Reide/Syndiñe/Dau danum og Heluijte. Og til æfinligrar miñingar hier vm/ hefur hañ giefed oss sitt Hollд og Blod/ ad eta og drecka/til eins Insiglis og fullkomligrar styrkingar/vppa hañs Ord og vora Saluhialp.

Til

Til Folkſens ſem ſtatt er vid þeſſa heilꜳgn þionuſtugiörd
hia enū Siuka   Seige Preſtur ſo.

Vor Drotten Jeſus Chriſtus ſeiger ſo ſialfur/ ad huar tueir eda þrÿr eru ſaman komner i mÿnu nafne/ þar er eg mitt a mille þeirra/ Og huad ſem vier bidium i hañs Nafne/ þad faum vier viſſuliga/ Eñ ſaker þeſſ ad vier erū hier nu i Nafne Drottens til ſamanns komner/ ad hallda Miñing hñs Heilaga Dauda / þa ſkulum vær i Nafne Gudz/ giefa vorum ſiuka Brodur ( Syſtur ) Gudz heil agt Sacramentum/ ſem nu kann ecke od komaſt med oſſ til Kirkiunar ſamkomu.

Sÿdan Leſe hatt og ſkÿrliga Credo og Pater noſter i
Modz male/ Take ſÿdan patinūa med Braud=
inu og leſe Helgunar Ordin.

Vor Herra Jeſus Chriſtus a þeirre Natt ſem hñ for radin vard/ tok hñ Braudid giørde þacker og braut þad og gaf ſÿnum Læreſueinum og ſagde. Takid z etid/ þad er miñ Lÿkame/ ſem fyrer ydur verdur giefeñ/ Giøred þad j mÿna Miñing.

Giefe þeim ſiuka og ſeige.

Lÿkame vors Herra Jeſu Chriſti vardueite þijna Sal til eilÿfs lÿfs.

Take ſÿdan Kaleikiñ og ſeige.

Sømuleidis epter Kuølldmaltÿdina/ Tok hñ Kaleikinn z giørde þacker/ gaf þeim hñ og ſagde/ Drecked aller hier af/ þat er Kaleikur hins nyia Teſtamentis i mÿnu Blode/ ſem fyrer ydur vthelliſt til fyrergiefningar Syndanna/ So opt ſem þier giørid þetta Dreckid þad i mÿna Miñing.

Giefe þeim ſiuka og ſeige.

Blod

Blod vors Herra Jesu Christi vardueite þyna Sæl til eilijfs Lijfs.

Epter þetta seige presturiñ til hins Siuka.

Nu miñ kiære Broder(Syster)þu hefur þig nu biuÿsad Kristiñ Mañ vera/ og ert nu eiñ Limur Christz Lÿkama/ þar fyrer vertu nu miñugur/ad huer sem med Truñe verdur jñplantadur Christo(ad þo hñ deyie)Þa ma Dauvñ honū ecke leinge hallda/helldur mun hñ vpprijsa a Doms deige. ecke til Daudligs lÿfs / helldur til eilÿfs Lijfs / og mun sia Gudz Andlit til Andlitis / samteingur vtuøldum heiløgum Gudz/J þessare von styrk Hiarta þitt/Og set þiñ Anda/og vilia til Gudz vilia sem skapad hefur Himen og Jord af onguo efne/Hñ mun og þig/huern hñ hefur skapat epter siñe Likneskiu og Lÿking/og hañs Sonur hefur leyst/ ecke forlata/ suo þu fordiarfest eilÿfliga. Hugleittu þau Nadarfullu fyrerheit/sem en Sañleiks fullaste Gud hefur suo margfalldliga lofad fyrer Spameñina og Postulana/ einkanliga Ad þeir sem Trua a Christum þeim er lofad Hiñna Rÿke/Sierdeilis lattu þier ecke vr miñe falla/huer su beiskan/ hadugligan/harmkuæla fullan Dauda/ad Christur hefur þolad fyrer oss/ Og bid af Hiartans grund ad soddan hñs Kroßtugasta/og nægdarfullasta forþienan verde sett i mille þinnar Salar og hañs Riettlætis j þinne Framfør/ Og so tru þu med øllu/ad hñ hafe nogsamliga fyrer þig þolad/ og med sinne forþienan/þier til reitt hia Gude heymkyñe eilÿfs Lÿfs Lioss og glede/Christur hinn Kroßfeste/hñ ende vid þig øll siin Fyrerheit. Amen.

Signingin.

Gud vor himneskur Fader sem þig hefur skapad/hann Blesse

Blesse þig/ Gud vor Herra Jesus Christus sem þig hefur endurleyst hñ frelse þig. Gud Heilagur Ande/ hañ upplyse þitt Hiarta i sañre jdran/ riettre Tru z Vidurkieñingu og kristeligum Kiærleika. Þesse Heiløg Þreñing styrke þig bæde i Salu og lijfe/ og late þig stødugañ standa i all re astridu og freistingum/ med riettre Tru. Drottinn vor Gud sie med þier/ og Blesse þig/ og vernde þig fyrer øllu vondu/ Og giefe þier þad Eilijfa lijf Amen.

Fridur Drottins sie med þier Amen.

Eñ þa er brad naudsyn krefur/ ef hiñ siuke er langt komin/ þa Lese fyre honum/ Fader vor/ Truna/ og Helgunar Ordin og soddan amiñing sem hñ sier hiñ Siuke gietur epter bedid/ vegna hñs kräkleika/ Og þiona uste hañ strax sydan og bifale hñ so Gud i valld.

Item þar sem vera kuña siuker Meñ i Budum og Kofum edur ødr rum oklarum stødum og hreysum/ þa siae Prestarner til/ ad þeir med allre athygle/ umhuxe og fyrer Gudz skulld vid leite/ ad handterast mætte þad Heilaga Sacramentum/ sem hreinligast og virdeligast sem þad verdur giört.

Ei skulu Prestarner hia þeim siuku hafa utan þeirra eigin klæde. Þar fyrer hæfer øllum Gudhræddum KieñeMøñum ad hafa ærligañ Sidsamligan Klæda bunad/ i heidur vid þad Haleita Sacramentum

Þar sem prestur verdur eitt siñ kalladur til siuks Manns / þangad skl hñ optar koma/ ef hiñ Siuke hefr þess þørf/ utan so sie ad sa siuke hafe einhuern a Bænum sem Lesa kañ fyrer honum af Gudz Orde.

Formale

# Um Hionavixluna

## Lijtil underuijsan/Vegna einfalldra.

### lijtlærdra Presta

Suo skrifar sa merkelige Gudz Madur Doct. Martinus Luther. Epter þui (seiger hn̄) ad Brullauped og Hionabandsstietten er Ver, alldligur hlutur/ þa höfum vier hier ecke annad med / enn ad giefa Hionen samā/og fria samuiskurnar / mz Kristeligre undernijsan og leidriettingu. Hier ad hnijgr sa gāle malshattur/ Siñ er sidur i Lande hueriu/Þar fyre byriar oss og ad lata/huert Lād/Borg og Bæ/hallda sijnum Löglígum siduana/um Trulofan/Kaup/ Festing/ Brullaup/ og annad sem Hionabands giörninge til heyrer. Eñ med þui Lands vijsa er Lands æra/þa byriar oss ei helldur ad umbreyta þui/sem gam allt og Kristeligt og lofligt er hier hia oss/af huerre breytne ei kiemur annad enn kyf og osamþycke/med allre añare osidseme. Þui vil eg amint og umbedid hafa/alla kieñe Meñ og Presta/ad giæta vel at vor um gömlu Kyrkiu Lögum og ödrum Kristiligum skickunum þad Hio na bandinu viduijkur/so ad aller hlutet mætte þui betur og Kristeligar tilganga i þessu efne.

Fyrst er þ athuganda ad sa sem vill giptast hn̄ uppbyrte þad med Bæn og akalle til Gudz/Þuiad so skrifar sa vijse madur. Gotz og pen inga taka Meñ epter Födur og modur/enn god Kona kiemur af Gude

Þar næst sa sem sier vill Konfangs leita/ þa skal hann þeirrar Meyiar eda konu leita med godre forsia/ad ei sie meinbuger a/so ad hn̄ vite/med þeim fleirum godum Christeligum Greinum sem ad standa i vorum gömlum Kirkiulögum.

Þad skal og öllum kunnugt vera / ad so er nu skipad/ad þar skulu eingin hion samangiefast/sem eru Þrimmingar og þar fyrer iñan.

Leyneligur Hiuskapur Kaup edur Trulofaner/ er med öllu fyrer boded/og ad onguu halldande/ei helldur þær trulofaner.sem skie i mo te vilia og Rade Forelldranna edur giptingar Maña.

Leikmeñ skulu nu ei Kaupa med nockrū Hionum/ og eingin nema soknarprestur/So skal og Presturiñ taka til sijn/minsta koste v. erliga Meñ/sm̄ vitne sku vera Hionabāds giörningsins/huad sm̄ aliggia kañ.

Vandliga skulu Prestarner fyrerbioda/Hiona efnunum at koma sam an adur eñ þau eru saman vigd/Enn ef þau þad ei hallda/þa afleys est þau opinberliga/sem fyrer frillulyfe/ þuiad slijkar hneyxlaner eru i Kristeligre Kirkiu ecke lydande.

# A'd kaupa med Hionum.

Nu ad framsógdu Sietaupe og óllum skilmala/ þa spyrie Presturinn þau ad med þessum ordum.

Villtu N. Son taka þessa Kuiñu (Fomfru) Þier til eigin Konu / so siuka sem heilbrigda/huad sem yckur kan̄ til handa ad bera a medan þid lifed bæde.

seige han̄ Ja

Villtu N. Dotter taka þennan̄ Man̄ þier til Husbonda/ og eiga hn̄ so siukan sem heilan.

seige hun Ja

Epter Jayrde þeirra beggia þa takist þau i Hendur og seige Presturinn so

Gud siae Handa band þessara Man̄a sem hier taka høndum saman / af eirne alfu N. N. Son og N. N. Dotter. Enn þad felst z skilst vnder þessu þeirra handa bande/ad þau laugrada med sier Hiuskapar band/so framt sem þad meina ecki Gudz løg/ og med þeim skilmala sem nu var fram sagdur. Eru þid skylldug ad lata lysa þria Sunnudaga adur festar fara fram yckar þinga Prest/og epter Festing eru þid skylldug ad lata yckur samann vijgia (elligar verdur athuge ad yckru Hionabande/Og med þessu skilmala og adur søgdum Kaupmala/ sie Handa bandid laust/eñ kauped fast/ad vitne Gudz og allra þeirra godra Man̄a sem nu eru vid stadder:

Sijdan sie lyst i Kirkiunne med þessum ordum edur þuilijkum þria Sunudaga

Þui vil eg lysa fyrer ydur/ad N. N. Son z N. N. dotter hafa raded med sier Hiuskaparband epter Gudligri skickan̄/ og Landsins løgum. Og ef nockrer eru hier vidstadder sem

hier

hier vita nockra meinbuge a/ Frændseme mægder edur nockra adra talman edur hindran/ so ad þesse radahagur meige ecke ad løgum takast/ þa skylldast þeir til ad seigia ædur Festar fara fram/ Eñ þeir sem lysingina heyra/ og meinin vita og vilia ecke til seigia. eiga ecke seiña þar vm heyrast. Er þesse su fyrsta / auñur/ Þridia Lysing i Kirkiunne þeirra a mille.

So og er eg ydur amiñande/ og audmiukliga bidiande at þier bidied fyrer þeim til Gudz/ ad þau meige þetta i hañs Nafne vppbyria/ so þeim vel Luckest fyrer Sæl og lijf/ og seigium þar til/ Fader vor.

# Hiona Vixlan sialf

Ad endudum þremur Lysingum kome Hionaefnen til siñar soknarkirkiu a Suñudeige/ og late sig þar saman giefa og vijgia/ epter Gudz orda hliodan og Kristiligre skickan. Og soddan hatt mein þeir hafa sem ei betur kuña.

Fyrst a Suñudags Morgunin gange alle Folk til Stofu/ edr j nockurn añañ hreinligañ stad. Skal þar fyrst amalga/ huad þrafor a Kaupdeige/ vm þeirra felag Hionaña. Og ef onguar hindraner koma þa eñ fram/ þa skal hañ festa Konu sijna/ epter vorum Landslögum/ ad heyrdu Jayrde beggia þeirra/ sem sidur er. Jate suo hatt ad aller heyre/ Og sie vel ad giætt ad Kueñsuiptin sie oneydd/ og hafe siñ fria lsan vilia. Sydan take Brudguminn i hönd a Brudiñe/ og mæle þessum ordum.

Eg N. Son feste þig N. Dotter/ mier til Logligrar eigin Konu epter Gudz Løgū ꝛ Landsins ꝛ Heilagra Fedra setninge/ Nu ertu mijn Løglig eigin Kona/ hiedan af.

Ad þessu endudu/ gange þau i Kirkiu huert med siñe fylgd/ og a mitt Kirkiugolf. Prestur sie bueñ þar til siñar þionustu giördar/ gange fram til þeirra/ og take so til ordz.

G g ij.

Goder

Goder Christi viner/ Kunugt er ydr huar komed er med þessum Personū sē hierstanda i augsyn Heilagrar Kirkiu/ Eru þau nu hier komin ad lata sig saman vigia/med Gudz orde/ z Kristeligre bæn/ad Gud villde giefa Lucku z Bless an til þeirra Hiuskapar.

Ad Sponsum et Sponsam.

Med þui þid slijkt girnest/ Þa vil eg eñ sē fyrer spyria/ Villtu N. Son taka þessa Kuinnu (Jomfru) þier til eigiñ Konu/ so siuka sem heilbrigda/ huad sem yckur kañ til handa ad bera/ medan þid lifed bæde.

Seige hñ Ja

Villtu N. Dotter taka þenañ Mann þier til Hus bonda/ og eiga hñ so siukañ sem heilan Seige hun Ja.

Hier skal Presturiñ leggia þeirra hendur til samans/og sijna hönd þar yfer/og seige suo til Folksins.

Med þui ad þessar ærligar Personnr N. og N. hafa samþyckt orded/og giefed sig til Heilags Hiuskapar bands/ Og hafa nu þessu hier Jatad og medgeinged opinberliga fyrer Gude og Kristeligre Kirkiu/ z cet. Þa seige eg þau Rietteliga samteingd/ j ærligum Kristeligum løgligum Hiuskap. Ad vitne Gudz og gödra Maña/ j Nafne Faudur z Sonar og Heilags Anda.

Hier epter seige Presturiñ til Hionaña.

Med þui þid hafed giefed yckur i Gudz Nafne/ i þa Heiløgu Hiuskaparbands stiett/ þa heyred nu fyrst Gudz Ord/ sem hlyder vppa stiett þessa.

Genesis ij. Cap.

Og Gud Drottinn sagde/ Þad er ecke gott ad Madurin sie einsamall/ vier viliun giora honum Hialp/ þa med hm

sie

sie. Þa liet Gud Drottinn Suefn hꝛgua falla a Mañiñ/ (hñ Sofnade) Og hañ tok eitt af hañs Rifium og fyllde aptur i stadin med Hollde. Og Gud Drottin skapade Konuna/ af þui Rife sem hñ tok/ af Mañinum/ z leidde hana til hans. Þa sagde Maduriñ/ Þetta er eitt Bein/ af mijnu Beinum/ og Holld af mijnu Hollde/ Þar fyrer mun hun Karlmña kallast / þui hun er af Karlmañinum komin. Og fyrer þui skal Madurenn fyrerlata Fødur og Modur og Samteingiast siñe eigin Konu/ og þau tuø skulu eitt Holld vera

Þessu næst þa heyred Gudz Bod og bifalning/ huer nen Gud vill þid lifid i þessare Hionabandz stiett.

Ad Ephesios vi.

Þier Meñ elskid ydar husfreyiur lijka suo sem Christur søfnudiñ/ og gaf sig sialfan vt fyrer hann / wppa þad hñ Helgade hann/ og hreinsade fyrer skijrnar Saiñ i Ordinu/ So ad hann til bygge sier sialfum/ dyrdligã Søfnud/ sem ongua Fleckann/ edur hrucku/ eda þess konar hefde/ helldur þad hun sie Heiløg/ og Ostraffanlig/ So skulu og Meñerner elska sijnar eiginkonur/ sem sijna eigen Lijkame/ huer sijna eigin Konu elskar/ hann elskar sig sialfan/ þui eingiñ hefur vm alldꝛ sitt eiged Holld hatad helldꝛ nærer hann þ og foostrar/ so sem Drottinn Søfnudinn/

Kuiñurnar se sijnu Bændu vndergiefn*u* so s Drottne/ Þuiad maduriñ er Kuiñuñar høfud lijka so sem Christur er Safnadarins Høfud/ og hñ er Frelsari sins Lijkama/ En lijka so sem Søfnudurinn er nu Christe vndergiefinn/ suo og eirnen skulu Konurnar sijnum Bændum/ i øllu.

I Þridia

Í þridia lage meige þid hepra þann Motlætis Kross sem Gud hefur lagt a þessa stiett.

So sagde Gud til Konunnar/ Fiølga mun eg eymder þijnar/ Þegar þu verdur oliett skalltu Børn þijn med Sott og harme Fæda/ Og vnder Bonda þijns vallde skalltu vera/ og hñ skal þiñ Herra vera. Gen. iij.

Og til Adams sagde Gud.

Fyrer þañ skulld ad þu hlydder Raust Konu þiñar/ og æst af þui Trie/ hueriu eg bannada þier/ z sagde/ þu skallt ecke þar af eta/ Þa sie Jørdiñ Bøluød fyrer þijna skulld Med Erfide skallt þu þig af henne Fæda alla þijna lijfs. Daga / Þyrna og Þystla skal hun þier bera/ og þu skallt Jardarinnar Jurter eta/ Í Sueita þiñar Asianu/ skalltu þijns Brauds neyta/ Þar til þu aptur ad Jørdu verdur/ sm̃ þu ert af komen/ Þui ad þu ert Molld/ og ad Molldu skallt þu verda aptur.

Í Fiordu grein er yckur þad til huggunar/ ad þid vited og trued ad yckar stiett er fyrer Gude þægelig og Blessud/ þui so seiger Ritningin.

Gud skapade Mañiñ epter sialfs sijns Mynd/ Ja/ epter Gudz Mynd/ skapade hñ hann/ Og hñ skapade þau Karlmann og Kueñmann/ og Blessade þeim og sagde til þeirra/ Vaxed og fiølged og fylled Jørdina/ og legged hana vnder yckur. Drottned yfer Siafarens Fiskum/ og yfer Himensens Fuglum/ og øllum þeim Kuikendum sem hræraft a Jardrijke/ og Gud leit allt þad er hann hafde skapad/ og siadu þad var allt saman harla gott. Þar fyre seiger Salomon so/ Huer sem eignast eina Kuiñu/ hann fær godann hlut og medtekur þocknan af Drotne.

Hier

Hier skal Presturinn bidia Folked/ad bidia til Gudz fyrer Hionunū og legge sijnar Hendur yfer þau og seige.

## Latum oss bidia.

Allzualldande Gud Drottinn/þu sem Karlmann & Kueñ mañ hefur skapad og skickad til Hionabandsstiettar/þar til med Lijkamligu afkuæme Blessad/ og þad Sacramentum þijns elskuliga Sonar Jesu Christi/ og Kristniñar hanns Brudur þar med teiknande/Vier bidium þijna Omælanlig a godgirne ad þu vilier ecke þijna þuilijka skøpun/skickan/ og Blessan/lata til Onytes verda/ nie fyrerfarast /helldur Myskunsamliga Vardueita/ Fyrer Drotten vorn Jesum Christum Amen.

## Auñur Bæn.

Vier vilium aller bidia.

Almaattigur Eilijfur Gud og Myskunsamur Fader/ þu sem sialfur hefur skickad/ ad Madur og Kuiña skylldu vera eitt Holld/ Og hefur þessa samteinging stadfest med þiñe Nad og Blessan/ Vier bidium þijna Myskunseme/ ad þu giefer þessum Hionum/sem hier eru nu saman vijgd j þijnu Nafne/ Nad Lucku & Blezan til Lifs & Sælar/ Ad þau mætte truliga og rietteliga þiona þier j Kiærleika og sam-þycke/ Og alla tijma vera hlyden þijnu Heilaga orde/ So þau mætte a þañ sijdasta Dag verda fundiñ i tølu Riett-kristiña Maña/j Jesu Christo þijnū Syne vorum Herra/ Huer ed med þier & Helgum Anda lifer og rijker/vm allder allda Amen.

Huernen

# Huernen Konur skal leida i Kirkiu.

Þegar nockur Dandis Kuiña stendur fyrer Kirkiu Dyrum og skal i Kirkiu ganga epter siñ Barnburd/skal Presturiñ til hennar koma eþ haň er kalladur þar til/og seigia til þeirra sem þar i kring eru.

Goder Kristner Brædur/Þesse vor kiæra Syster er nu i Dag hier komin til Kirkiudyra epter sinn Barnburd/ þui vilium vær aller þacka Gude fyrer hana/ad heñe hefur vel geinged med auøxt siins Kuidar. Og vilium vær aller a Knie falla/ og bidia fyrer heñe eina Pater noster/ suo hun meige med tyktan vppfæda siin Børn i Gudz otta/og hei-dran/ og so fyrer øllum ødrum dande Kuiñum/sem þungad ar eru/hier edur añarstadar i Sueitum/ ad Gud vilie giefa þeim siina Nad til ad skiliast vel fra siinum auexte/siidann foruara hann fyrer Ellde og Vatne og øllum liifshaska/ so þær kome ecke i Naska fyrer Liif edr Sal/ fyre siin Børn

Fader vor et ce.

Þar epter seige haň til heñar/þa hun er jñleidd

Miin kiæra Syster/ Kom nu jñ apfur i kristeliga sam-kūdu/ til ad fullgiøra þ s̄ Kristiñe kuiñu ber ad giøra hier jnnan Kirkiu. Vor Drottinn Jesus syne þier sina Mysk-un/Mañe þiinū z Børnum/z øllum þeim Gud ettast ad eiliifu Amen.

# Huernen Lijk skal grafa.

Þa Lijk kiemur til Kirkiu/ þa sie jn̄borid epter venīu. Og sie hringt ei þyrer hinum Dauda/ helldur ad vppuekia þa enu lifandu.

En̄ a medan Lijked er bored vr Kirkiuñe og til sijns Legstadar/ þa skal syngia þeñañ Psalm/ Af Diupre hrygd/ vt supra Suñudagiñ þyrstanu i Föstu/ Þar næst þeñañ psalm.



Mitt j Lijfe erum vier/ vmuafder med Dauda/ Huert leitum suo finnū hier Hialp vid þssū voda?



til þijn Drottiñ alleina/ Illgiørda vora jdrunst nu/ er



þui vallda ad Reidist þu/ Heilage Herra Gud/ Heilage



styrke Gud/ Heilage Lijknsame Lausnare þu æfenlige



Gud/ lat oss eige falla j þa Grimu Daudans Neyd


Kyrieeleison.

Mitt j Dauda ad oss stær/Ogn af Vitis Kuolum/ hū þm̄ af oss hrunded fær/hialp þa oss vi' solū/þ ertu Drott- iñ alleina/mæd' hiartās myskun þijn/Mañkyns Kuol og Synda Pijn/ Heilagr Herra Gud/ Heilagr styrkr Gud/ Heilagr Lyknsamur Lausnare/ þu æsinlige Gud / lat oss ei ofbioda/ogn af Vijtis grimre glod/Kyrieleison.

Mitt i Vijtis mestu ogn/misgiørder oss reita/ huar fañ vier þeim Hialp j giegn? Huer kañ oss lid ad veita? þad ertu Drotten alleina/þui Blodid þitt vor Christe kiær/ kuittad allar Synder fær/Heilagr Herra Gud/Heilagr styrkr Gud Heilagr Lijknsamr Lausnare þu æsinlige Gud/ Hialpa oss þa Heim vid skilium/ad hallda rietta Truar slod Kyrielei- son.

Nær Lijked er komed til grafariñar/og nidursett/ kaste Prestuiinn Molldarrekum þremur i Gröpina/segiande.

Af Jordu ertu komen/Og ad Jordu skalltu verda aptur. Og af Jordu skaltu vpprijsa a ysta Deige.

A medan menn fylla Gröpina/þa sie sunged Vier Truum. Nunc Di- mittis a Islendsku. Sem fyr standa.

Sijdast þeñañ psalm.




þuj




bregdast kañ.

Hollded er Jord/og af Jørdu/ad Jørdu eiñin apt᷑ verdur/þad rÿs af Jørdu efalaust/þa vpp kiemur Gudz Lwdurs Raust.

J Gudz Rÿke Aunden Lifer/eilÿf Myskun heñe hlijfer Fyrer Christum þiñ kiæra son/kuitt vid Synder og Daudans von.

Hans motlæte hrygd z mæda/hefur nu øll ending goda/ Ok Christz vm siјna æfe dro/er nu framlidin eñ lifer þo.

Eilijfan Frid Aundin hefur/allt til Doms dags Hollded sefur/Gud þa af Jørdu vppreiser þad/odaudligt heillt z forklarad.

Luiñ skildist hañ vid Heimin/i Himna sælu er nu komiñ þar lifer hñ hia Lambsins Stol/ Liomar ætÿd sem Skiæra Sol.

Sydan/ef presturiñ er þar vmbediñ/og,þor þienktur giöre hñ amiñing til Folksins.

Sie vond og stird vedratta /þa kallist Folked jñ i Kirkiu/ad heyra þar Lÿkpredikun/ Og heñe endadre sie sungiñ þesse Vers

Sofe hañ nu hier i Fride/ heim vier gøngum fra þessu Leide/ sem best jafnan sig side huer/ suo vittar Daudin lÿka vor..



Þar

Þar til hialpa oſſ Herra Chriſte/huer med ſijnu Blode oſſ leyſte/fra Diøfle Pijnu Dauda og Heim/Dyrd heidur Lof ſie Konge þeim/ Amen.

## Hier endaſt Ceremoniur. yfer þeim Daudu.

### Ein. Aminning til þeirra ſem ganga til þeſſ Heilaga Sacramentis.

Mijner elſkuliguſtu i Gude/Fyrſt ad vier viliū nu hallda og miñaſt Kuelldmaltijdar Drottins vors Jeſu Chriſti/ þar jñe ad oſſ verdur giefeñ hñs Lijkame/til eiñrar Fædu z hñs Blod til eins Dryckiar/ Ecki Lijkamās vegna/helldr Salariñar/ Þui ſkulum vier/ med mikille giætne ſier huer ſialfan ſig profa/ſo ſem S. Pall ſeiger. Og ſijdann af þeſſu Braude eta og af þeſſum Kaleik drecka. Þui eingin ſkal þetta Heilagt Sacramentum medtaka/ vtan alleina hungrud Aund ō ſijnar Synder vidurkieñer/ Ottaſt Gudz Reide og eilijfan Dauda/ Og ſu ſem hungrar og þyrſter epter Riettlætinu. Eñ ef vier profñ oſſ ſialfa/þa fiñum vier ecki i oſſ nema Synd og Dauda/ og kuñum oſſ ſialfer ongua neigin þar vt af ad hialpa/Þar fyrer hefur vor elſkulige Drottinn Jeſus Chriſtus/ aumkad ſig yfer oſſ/og hefur fyrer vorar ſaker Mañdom a ſig teked//So ad hañ fullnægde fyrer oſſ Løgmalinu/ og lide fyrer þad ſem vier

vier med vorum Syndum/hø fum verdskulldad. Og til þess/ ad vier stadfastliga trydum/ og oss gladliga þar vppa for=lata mættū/tok hñ Brauded epter Kuølldmaltijdina/giørde Packer/ Braut þad og sagdi/ Medtaked og eted/ þetta er miñ Lijkame sem fyrer ydur verdꝛ giefin/ Sem villde hñ suo seigia/ þad eg em Madꝛ ordiñ/og allt huad eg giøre z lijd/ þad er ydart eiged/ fyrer ydar skulld/og ydur til goda skied/ og til sanninda þar vm/ gief eg ydur miñ Lijkama til eiriñ=rar Fædu. Sømuleidis tok hñ Kaleikinn z sagde/ Medtak ed og drecked hier af aller/ þesse Kaleikur er nytt Testamen tum i mijnu Blode/huert ad fyrer ydur og marga/vt hellist til fyrergiefningar Syndaña/ Giøred þetta so opt sem þier þad Drecked/ j mijna miñing / Sem villde hñ so seigia/ Af þui ad eg hefe ydꝛ ad mier teked/og ydrum Syndum a mig hladed/vil eg sialfann mig fyrer Syndernar Fornfæra/ mijnu Blode vt hella/ Nad og Fyrergiefning Syndaña af reka/og i so mata/ eitt nytt Testamentum vppsetia/ þar jñe ad Syndanna / skal ecki ad eilijfu miñst verda/ Og til sañ inda þar vm/ gef eg ydur mitt Blod ad Drecka. Huer nu ad suo etur af þessu Braude og Dreckur af þessum Kaleik/ þad er/ Huer ad þessum ordum sem hañ heyrer/ og þessum taknum / er hañ medtekur/ støduglіga truer/ hann blijfur i Christo/og Christur i honum/og lifer eilijfliga. Þar med skulum vier miñast hñs Dauda/ og honum Packer giøra/ huør sinn Kross vppa sig taka/og vorum Herra epterfylg=ia/ Og yfer allt añad fram / sia vid Syndūum framueigis huør añañ elska/ so sem hañ hefur oss elskad/ þuiad marger vier erum eitt Braud/og eiñ Lijkame/ og eins Braudz hlut takendur/vier aller/ sem af einum Kaleik Dreckum/ Gud

hann

hann veite oss øllum/ad vier þad verdugliga mz tøkum Am̄

## Þegar onguer eru Comunicantes

þa ma Lesa eina af þessum epterfylgiande Collectum.

## Pro Peccatis.

Almattugur eilijfur Gud/ straffa oss ecke epter vorum Syndū/ og þo ad vier verdskulldum þijna Reide og Refsing med oflatanlignm Syndum og misgiørdum vorum þa lat oss ecke eilijfliga fordæmdast/ Helldur fyrergief oss þær vegna þinnar Myskunar/og lat þær vera hludar fyrer þijnu auglitti/ Fyrer þinn.

## Pro Congregatione nostra.

Almattugur Eilijfur Gud/sem hefur epter þinu Guddomligu Rade / kallad oss i samkundu þinar Kirkne/. Vier bidium þijna osei gianliga Myskun og giæsku/ Giør oss styrkua og stadfasta i þijnu Heilaga Orde/ so sem þu hefur Nadarsamliga uppbyriad vid oss/ ad vier mættum fyrer þier lifa i rettre Tru/ Og jafnbyrdis medal vor i Riettū Kiærleika og samþycke. Fyrer Jesum Christum.

## Pro ecclesia.

Almattugur eilijfur Gud/sem alleina veist tølu þinna utvaldra Barna/sē erfa skulu þa eilijfu Saluhialp/ Virdstu ad varduetta þijna Heilaga Kirkne/i sañre Truarinnar Jatningu/og riettū Kiærleika/ og ad hun mætte i øllū hlutū þier þocknast/ Fyrer þin elskuligan z cr.

## Ad Postulandam Pluuiam.

Ein

Almattugur eilijfur Gud/ sem vegna vorra margfalldra Synda/ lætur Regn og hagkuæmliga Vedrattu ecki koma a Jørdena/ so sem þad skiede a Døgum Elie/ Og þu lætr Regn falla yfer eitt stad enn ecke annann. Vier bidium þijna Fød urliga Godgirne/ Lat vpp þijna Myskunar Hønd/ med Regne z groda yfer Jørdina/ ad vier fyrer þijna hialp z hia stod og myskun/ mættum lof og þacker seigia þijnu Heilaga Nafne/ Fyrer Son þinn z c.

## A Bæna Daga.

Almattugur Eilijfur Gud/ sem alleina ert Hialp og Styrkur allra þeirra sem þig akalla/ Vier bidium/ Heyrdu Bæner þinna Kristinna Manna/ Og gief oss/ ad huers vier bidium Rietteliga og epter þijnum vilia/ ad þad sama mætte oss Myskunsamliga veitast/ Fyrer Drottinn vorn Jesum Christum Son þinn z c.

## AD PIVM LECTOREM.

Habes christiane Lector, diu desideratum Graduale, Habes etiam Manuale, ut vocant, in quibus Cantiones & Ceremoniæ Ecclesiarum compræhenduntur. Si autem aliquid te offenderit, aut si quid desiderátur, tuum erit boni consulere, Vale.

Þryckt a Holum j Hialltadal
af Jone Jons syne/ xxv. Dag Oct.
MD XCIIII.

